Ao Chr. — Auctores.

611. Heraclius vard Keisari i Noom.

623. Mahomed flijdi fra Mecha. Þar b'riast Tyrkianna ar-tal, sem kallast HEGIRA. Mahomed skrifadi eina Book sem innehelldur Tyrkianna lærdoom er kallast ALCORAN. Hann inntook og yfervann sijdann med þeim Saracenis, sem tooku hanns trw, Mecham, Phæniciam, Syria, Ægyptum, Mesopotamiam.

Mahomed ásamt einum Múk sem hiet Sergius samannskrifadi Tyrkianna Løgbók og Bibliu sem kallast ALCORAN (þad þíder Leidrietting) so sem vildi hann leidrietta þad Gamla og Nýa Testament í H. Ritníngu. Bókenn iñhelldur 72 Capituka, samannsett af Christinna, Gidínga og Heidíngia Trúarbrøgdum, og er hún í fullu gilldi hiá Tyrkium enn nú á vorum døgum.

Ad qvølldi þann 15. Júlii þegar Sól er í vestri biriast Tyrkianna ára Reikníngur. P. Diac.

632. Mahomed deide. Ildelphon.

Skrifad er ad Konur hanns hafi sviked hann á eitre. Cedr. Saraceni sem komner vóru í gegnum þaug Caspisku Fiøll, iñ í Austurá'funa, samteingdu sig og giørdu fielag vid þá Mahometisku, og heriudu sídann ákafliga, inntóku Jerusalem, og Gidínga land, ásamt stórann part af Persia, og er þetta sú Þióð sem nú kallast Tyrkiar. P. Diac. Otto Fris. Gotf. Veterbien.

636. Saraceni inntooku Ægyptaland og strax þar efter Gidijngaland og Jerusalem.

641. Andadist Heraclius Keisari, vard þa aftur Constantinus Pridie 6 maanadi. Þa Heracleonas eiñ nw 6 maanadi. Zonar.

642. Constans *II.* Keisari i Miklagardi. Diac.
Eyeñ Cyprus iñtekeñ af Tyrkium, og nockru sijdar Rhodus. Theophi.

668. Saraceni heriudu i Affrica og herleiddu þar 80000 manns. Cedr.

§. 20.

669. Constans Miklagards Keisari andadist. P. Varnef.
Inntooku Saraceni Sikeley.

Ao. C. | Auctores.

Á Ellefta ári Rikisstiórnar Constantis Annars, fiell mikel blod af himnum. Þar efter kom pest og mikill Manndaudi; í Constantinopel sást og vofa, sem gieck um í stadnum, og sló á allar húsdir; dóu eins marger menn í hveriu húse í borginne, sem høggenn heirdust mørg. | Reg. Pruasiger. Sigeber.

670. Constantinus *IV.* kalladur Pogonatus Keisari. | Funcii Chr.

673. Saraceni umsátu Constantinopel.

Eirn Meistari Gallinicus ad nafne, fann þá upp ad giøra elld, sem logadi í Siónum, og med honum uppbrendu þeir Christnu, mest allann flota Tyrkianna, so þeir máttu leggia frá. | Cedr. Zonar.

687. Andadist Keisarinn Constantinus, Jústinianus *II.* hans son Keisari.

696. Var Jústinianus affettur, enn Leontius took Keisaradæmid 3 ar, og sijdann Tiberius Absimarus 7 ar. | Diac.

706. Kom Jústinus aftur til Keisaradæmisins. | Zon.

712. Vard Philippicus Bardanes Keisari, um þessa tijma lifdi Beda, hinn nafnfrægi Sagnameistari i Einglandi, hann andadist 738. 73 ara gamall. | Cluv. The. Ch.

714. Þad Gothiska Rijke i Spania var eidilagt af þeim Saraceuis, sem þangad komu fra Affrica, og yferunnu Koong Rodericum. | Diac. Rod. Tol.

715. Artemius Anastasius Keisari i Miklagardi. | Baruef.

717. Theodosius *III.* Keisari 1 ar, og gieck sijdann i Klaustur. | Zon.

718. Leo *III.* Isaurus vard Keisari i Constantinopel, hañ atti langvarandi þrætur, bædi vid Paavann Gregorium, og adra Geistliga, sem moot Keisarans vilia predikudu lijkneskia tilbeidslur, hinna heilogu. | Cedr. Diac.

735. Reiknast ad Haralldur Hilldetønn hafi falled firir Sigurde Hring, i Braavalla bardaga.

738. Deidi. sa nafnfrægi Beda Prestur i Einglandi.

741. Andadist Leo *III.* og vard hanns son Constantinus Copronymus aftur Keisari. Á þeim tijma var Paave i Room, Gregorius þridie, sem firstur bannfærdi Leonem Keisara, miog jook makt Paavanna, og framfilgdi fast lijkneskia dijrokun. | Sigeber. Gembl.

742.

Ao. Chr. **Auctores.**

742. Fæddur Carolus Magnús
746. Oveniuligt mirkur i marga daga, hvar æ efterfilgde ein Cedr.
hrædilig pest i Constantinopel, og vijda annarstadar.
751. Carolus Martellus Fursti af Burgundien, hafdi lætid Eginh.
efter sig ein son sem hiet Pippinn, hann took æ þessu Polyd.
ari Koongdoom i Fracklandi.
766. Keisarin Constantinus Copronymus sendi Pippinn Frackakoonge eitt Organverk og er þad hid firsta sem brœkad hefur verid i Kirkium hier æ Nordurlondum.

Pávar vóru nú ordnir misg mektuger, og eignudu sier Vasæus.
þær Borger og Stadi í Vollande, sem ádur heirdu til Miklagards Keisurum.

768. Deidi Pippinn Koongur i Fracklande, enn Syner hanns Cluv.
Carolus og Carolomannus, skiftu milli sijn Rijkinu. Chyth.
Carolus sat ymist til Achen eda Vorms i Þyskalandi.

Þad hiálpadi ecki líted til Pávanna Ríkdóms ad allt Añal. Franc.
þad sem Pippinn Kóngur tók frá þ im Longobardis, og allar
borger sem hann yfervann í Vallande, gaf hann í valld og Diac.
eigentóm Rómaborgar Pávum.

771. Do Carolomannus Koongur i Fracklandi enn Carolus eignadist Rijked. Ced.
772. Adrianus vard Pævi i Room.

Hann kalladi Carolum Magnum Frackakóng inn i Valland, og uppegudi hann móti þeim Longobardis. Eginhar.

Period-

Auctores.

# Periodus VII.

## Fraa uppbirian Rijkis *Caroli Magni* allt til *Ottonis* Firsta innehelldur *CLXIII.* Ar.

**Ao. C.** §. 21.

773. Carolus Magnús yfervinnur Desiderium og giörir enda aa þeirri Lumbardisku Koongastioorn i Vallande, hafdi þad Rijki stadid 206 aar. Aven. Ann. Fuld.

Um þennann tíma segia gamlar Frædibækur, ad Naddoddur Víkingur hafi funded Island.

776. Leo hinn *VI.* Keisare i Miklagardi. Diac.
Stiftadi Carolus Magnús Biskups stool i Osnaborg; aadur hafdi hann stiftad Biskupa stoola til Salitzborg, Ratisbona, Frisijngen &c. Zonar.

778. Alphonsius Koongur af Spania bad hiaalpar af Carolo M. moot Saracenis, foor hann þvij med her yfer Alpes, inntook Pampelona, sijdann Navarra og Arragonien, enn er hann foor tilbaka, var hañ yferfallinn af þeim i Gasconia, sem giort hofdu samband vid Marcilium Saracena Koong, og misti Keisarinn þaa i Runtzeval kiarnann af sijnn besta foolki, og margt af þeim franska Adle, samt sinn Systurson Rollant. Eginh. Anal. Fuld. Adelm.

780. Deidi Leo Miklagards Keisari, son hanns Constantinus aasamt moodur sinne Irene vooru Keisarar. Cedr.
Birtadist þad 33 aara strijd, sem Carolus M. hiellt moot Soxum, og ödrum þioodum i Þijskalande. Anal. Fuld. Crantz.

Firir utann ádur nefnd Biskupsdæmi, stiftadi Carolus M. eitt til Minden 782, eitt til Bremen 788, Halberstad 778 Padeaborn 780, til Munster 791, Hildisheim, Verden, Magdeborg, Hamborg 811. Uttrekt, Leodicum. it. 791. Hááskólann í Paris. Sigonius. Eginh.

787.

| Ao. Chr. | | Auctores. |
|---|---|---|
| 787. | Carolus M. tilsetur og endurbæter savng i Kirkiunum. | Ann. Fuld. |
| 797. | Irene Drottnijng alleina i Mikladarde. | |
| 800. | Leo Pridie Roomaborgar Pavi, coronar Carolum M. og var hann firste Keisari i Pijdskalandi. | Ann. F. |
| 803. | Nicephorus vard Miklagards Keisare. | |
| 812. | Michael Curopalates Keisari i Miklagardi. | Eginh. |
| 814. | Andadist sa loflege Herra Carolus M. til Achen i Pijdskalandi, 28. Jan. 72 ara ad alldri, þa hafdi hann raaded Fracklande 47 ar, Vallande 42 ar, og verid Roomaborgar Keisari 14 ar. | Avent. |
| | Ludovicus Pius son hanns took þa Koongdoom i Fracklandi og vard eirnig Keisari. | Ann. Fr. |
| | Biørn Svija og Gauta Koongur snerist a þessu ari til christeligrar trwar. | Hist. Magd. |
| 821. | Michael hinn Stame vard Keisari i Miklagarde. | Anast. |
| 826. | Klakharalldur og Eyrikur brooder hanns voru skijrder i Moguntia og efter þad, var Ansgarius eirn Mwkur sendur af Keisara Lodvik, ad predika Guds Ord i þessum Nordurlondum, Danmørk og Svijþiood. | Aimonius. Ab. Francic. |
| | §. 22. | Adam. |
| 830. | Theophilus Keisare i Miklagarde. | Brem. |
| 832. | Settur Erkibiskups stooll i Hamborg, hin firste i þessum Rijkium. | Marianus. |
| 840. | Andadist Ludovicus Pius, Lotharius *I.* Keisari i hanns stad. | Scot. |
| 841. | Ludovicus brooder Lotharii Koongur i Pijdskalandi, enn Carolus Calvus, edur hinn Skollotte i Frackland. | Eginh. Anast. |
| 844. | Sergius Annar Roomaborgar Pavi, hann var hin firsti sem umbreitti Paavanna rietta nafni. | |
| | Anno 845. var Erkibiskups stóllenn i Hamborg, eidilagdur, og ásamt Kirkiunne af þeim Nordmønnum sem þá heriudu uppbrendur, so Ansgarius Erkibiskup flýdi nakenn þadann, og var þá Erkistooll settur i Bremen. | Adam. Brem. |
| 845. | Michael Pridie med moodur sinne Theodora, Miklagards Keisarar. | Cedr. Zon. |

F 846.

Ao. Chr. | Auctores.

847. Leo *IV.* vard Paavi i Room, hann var sa firsti sem ei villdi þeckia Þydskalands Keisara fyrer sijna yfermann. Anast.

Efter Leonem Páva kom ein er sig nefndi Johannes 8da þesse sat 2 ár og 2 mánudi; Enn þá hann eitt sinn epter venju var borinn opinnberliga í Processiu, tók hann snøggliga Jódiótt fæddi Sveinbarn, og dó sídann. Þessi Skiækla sem seirna reindist, hiet Gilberta fædd og yppalen i Moguntia, í Þýdskalandi, lavg til síns Kinferdis, reiste so til Gricklands, hvar hún til Athenen tók stórum framførum í lærdómi, kom sídann til Róm, og fyrer sinn lærdóm og gódar gáfur kom þar til Pávatignar, hiellt sídann vid eirn af Cardinalunum, inn til hún vard opennber sem sagt er. Marian.Sc. Plat. Sigeb. Balæus. Volateranus Nadul.

854. Fæddur Haralldur Hárfagre Noregs Koongur.

Bædi Ari Fródi, Landnáma og Doctor *Finnur* i Historia Ecclesiastica seigia ad Ingolfur hafi funded Ísland 870. og þá hafi Haralldur Hárfagri verid 16 vetra, eñ 2 vetrum ádur stód Hafursfiardar Orusta, og því ártali filgie eg hier, þó eg viti ad bædi Baron Holberg efter Þormodi p. 694. í Danmerkur Rikis Historiu Tomo 1. fyrsta Upplægi heimfæri þad til Annum 875. og adrer enn nú seirna, vide *Langeb.* Script. Medii Ævi Tom. I. Pag. 543. Þoc er þad sett 853. Arngr. setur þad 848. *Schon.* Orig. Norv.

855. Ludvic Annar Keisari i Þijdskalandi. Sigon.
Lotharius Brooder hanns fieck Lotharingiam. Ann. F.
Carolus Burgundiam.

864. Gardar finnur Ísland, og nefner Gardarshoolma. Snor. S.

868. Haralldur Hárfagri hiellt Hafursfiardar Orustu, og eignadist sijdann ein allann Norveg. Orig. N.

870. Basilius Macedo Miklagards Keisari. Cedr.
Þann Ingolfur Arnarson Ísland, sem tok ad biggiast fioorum vetrum sijdar.

§. 23.

Ao Chr. Auctores.

§. 23.

875. Carolus Calvus Fracklands Koongur vard Keisari; i hans tijd heriudu Nordmeun i Frācklandi. Sigonius.

878. Ludovicus Balbus Keisari. Ursp.

880. Carolus hinn Pickve, vard Keisari i Pijdskalande. Aimonius.

Johannes 8de var á þessum timum Páoi i Róm, hann coronadi þessa 3 undannfornu Keisara. Carolus Keisari var hinn firsti sem befaladi ad setia ártal Christi Fæding á Bref og Document sem menn brúkudu. Anast.

A þessum árum tóku nockrar Pióder i Rúßlandi christni, med því móti ad Keisari Basilius sendi þeim ein Biskup sem predikadi miked af þeim 3 mønnum i Elldenum i Babylon, og sïdann fleigdi Gudspiallabókenne i logandi elld, enn fyrer bæn til Guds tók hana óbrunna þegar elldurenn sloknadi. Cedr. Zonar.

888. Carolus hinn Einfalldi Koongur i Fracklande, hann samdi frid vid Gavnguhrólf, giordi hann til Hertoga yfer Normandien, og gaf honum sijna dottur Gisla til ekta. Regino. Ah. Fuld.

Leo Siotti vard Miklagards Keisari. Cedr.

Amulphus Keisari i Pijdskalandi.

900. Ludovicus kalladur Barn vard Keisari 7 vetra gamall. Avent.

906. Alexander son Basilii Maced. Keisari i Miklagarde. Plati.

907. Constantinus Porphyrogenneta med moodur sinne Zóe Keisari. Cedr.

912. Ludovicus Jnfans deide, i hanns stad vard Keisari Conrad Firsti. Marian.

915. Egbertus Einglands Koongur, foreinar þaug 7 Rijki i Einglandi, og var firsti Einglands Einvallds Koongur. Rijkenn hietu sa adur: B. Hob.

1. Kent. 4. Eßsex.
2. Sußsex. 5. Mercia.
3. Orstangelen. 6. Northumbrien.
7. Vestsex, edur Vestur Saxarijke.

§. 14.

Ao. C. | Auctores.

917. Eyrikur Sigursæle Koongur i Svijarijke. Joh. G.

919. Henricus Auceps firsti Keisari, af þeirri Saxisku Lijnu i Þijdskalandi. Sigeb.

925. Henric Keisari heriadi a Gorm gamla Dana Koong og fieck sigur.

927. Henricus Keisari innriettar Marggreifastand, fyrstur i Þijdskalande. Cuspin.

Þessi Keisari útnefndi firstur efterfilgiande Margreifadæme í Þijdskalandi nefnl. 1. í Brandenborg. 2. til Meissen. 3. til Lúsatz. 4. í Avsturrike. 5. til Landsberg. Landenu til Forsvars mót Dønum, upprietti hann og það 6ta i Slesvik. Thrith. Phil. Chr.

928. Ulfliótur innfærir firstur Løg i Island, og stiftar Alþijng sijdann. Schedæ Arii Prests.

929. Eyrikur Blódøx Son Haralldz Hárfagra took Koongdoom efter Fodur sinn yfer Norege.

930. Rafn Hængsson, firsti Løgsøgumadur a Islande. Ar. P. h.

934. Haralldur Gormsson kalladur Blátønn Koongur yfer Danmørk, efter Gorm hinn gamla fodur sinn. Olaf. Trygg.
Hácon Adalsteinn Foostri took Koongdoom i Norege, hann setti Gulaþijngs Løg, efter radum Þorleifs Spaka, og Frostuþijngs Løg, ad radum Sigurdar Jalls, hann bodadi firstur H. Trw i Norege.

935. Flijdi Eyrikur Blódøx wr landi. Var Island albigt.

Period-

Auctores.

# Periodus VIII.

## Byriast med *Ottone Magno* Roomaborgar Keisara, og endast þaa *Conrad* Þridie took Keisaradoom i Þijdskalandi, innehelldur

Ao. C. *CCII.* Ar.

936. Otto Mikle vard Keisari i Þijdskalandi, og stiftar þessi Biskupsdæmi. 1. Brandenborg. 2. Havelborg. 3. Meissen. 4. Mersborg. 5. Magdeborg. Chron. Ph. Speng.

948. Haralldur Gormsson var skijrdur af Poppone og Danmork christnud af Ottone Keisara. Crantz.

Daner villdu med eingu móti fyrenn Poppo bar þeim áſiáande glóandi járn í hendenne, enn fyrer Guds kraft var óskadadur. Þesse Poppo var ein prestur frá Fríslandi. Nockrer skrifa hann hafi klædt sig einum Lierefstskiól mokudum í Tioru og Vaxi, qveikt sídann elld í honum og látid hann brenna utann af sier óskemdum.

960. Gunnhilldar syner tooku Rijke i Norege, og efter þaa Hácon Hladajall. Vita Ol. T.

968. Hatto vard Biskup i Moguntia, þaa var mikil dijrtijd.

Biskup liet samansafna morgum Fátækum, og innelukti þá í eirni Bigghlavdu, hvar hiner vesælu menn bidu og væntu sier Avlmusu, enn Biskup lagdi elld í hloduna og brendi þá alla inne; og er þeir veinudu avmliga, spottadi hann þá, og bad Bravdmísnar ei skrækia so herfiliga. Þessa hanns Hardíge straffadi Gud á þann hátt, ad Biskup fieck slíka ásókn af Músum, ad hann eingvann frid hafdi fyrir þeim nótt edur dag hvorke til ad matast nie sofa, hann flýdi þá í eirn Túrn sem bigdur var í fliótenu Rhin; enn mísnar sindtu, og elltu Thritem. Marian. Cosmograph. Munst. Mart. in Chron.

An. C. Auctores.

hann þángad, og skilldu ei vit, fyrenn þær drápu hann og átu lifandi. þær átu og af hanns nasu, hvar sem þad var málad edur skrifad. Schaffn.

969. Fæddist Olafur Tryggvason, efter æ Koongur i Norege Vita Ol. T.
Romanus Annar og Lacopenus, Zóe og Constantinus *VIII.* hofdu verid Miklagards Keisarar, sijdann Constantinus *IX.* og 961. Nicephorus 2 ær. Cedr. Luitpr.

§. 25.

969. Hungaria medtook christni og skijrn, 5 ærum ædur hafdi Mieslaus Fursti i Polenn og þad heila Rijke lated skijrast. Hist. Pol.
971. Johannes Zimisces Keisari 6 ær i Miklagardi. Chytbr.
973. Andadist Otto M. son hanns Otto Raudi vard Keisari. Cratz.
977. Basilius *II.* og Constantinus *X.* Miklagards Keisarar. Cedr.
979. Adalrádur vard Koongur i Einglandi og rijkti i 37. ær.
980. Haralldur Gormson drepinn, Sveirn son hanns vard þæ aftur Koongur i Danmork og Olafur i Sviþiood. Holberg.
983. Andadist Otto Raudi, eñ son hañs Otto *III.* vard Keisari. Aventin.
987. Utdeide i Frankarijki Koongaætt Caroli M. sem þar hafdi stioornad 236 ær, eñ Hugo Capetus vard þar Koongur 9. ær, Robert 34. ær, Henric 30. ær.
988. Valdemar Fursti i Gardarijke giftist Önnu Syster Basilii Miklagards Keisara, og undereins took sw Russiska Þiood skijrn og Christni (ɔ: Grisk) Trwarbrøgd.
991. Kom Elldur upp wr Fliootenu Rhijn, og afbrendi næstu Bændabigder. Schaff.
995. Olafur Tryggvason vard Koongur i Norege, og took ad boda þar christna trw. Vita Ol. T.
996. Otto Keisare sette Gregorium *V.* til Pæva i Room, efter hann kom Sylvester Annar, sem sagt er ad sig hafe giefed Dioflenum, til ad næ þvij Embætte. Platina. Dithm.
1000. Keisari Otto *III.* innsette Bolislaum Chobrium til Koongs i Polen. Cuspin.
Christniløgtekenn æ Islande. Vita Ol. T.
Olafur Tryggvason yfervunnenn vid Svølldur.
Jarlarner Eyrikur og Sveirn tooku Rijki i Norege.

Skrifa

Año Christi. | Auctores.

Skrifa nockrer Frædimenn, ad þeir 7 Kiorfurstar i Þijdskalandi hafi first verid wtnefnder, til ad velia Keisarana. Christenn trw bodud og innleidd a Grænlandi, sem funded og numed var fra Islande Anno 986. Heigius. Rud. Arng. J. Grønl.

1002. Henricus Annar Roomaborgar Keisari. Chron.

Adalrádur Einglakoongur liet drepa allt Danskt folk i Lundunaborg. Chron.

1007. Henricus Keisari uppriettti Biskupsdæme til Bamberg, sem er eitt þad mektugasta i Þijdskalande. Bamb. Doct. Finns Histor. Eccl.

1011. Skiedi Niáls brenna. p. 176. T. 1.

1014. Knútur rijki son Sveins Tiúgúskeggs, Koongur i Danmørk, og heriadi i Englandi. Dithm.

1015. Olafur Haralldsson took Rijke i Norege. Vita Ol. S. Har.

Skiedu Heidarvijg.

Basilius Keisari took til fanga i strijde 15000 af þeim i Bulgaria, sem giort hefdu uppreist i mooti honum, og liet blinda þa alla, einasta behiellt hvor hundradasti madur ødru sijnu Avga, til ad vijsa hinum veigenn heim aftur.

1017. Knútur Dana Koongur, vard og Koongur yfer Einglandi. Sigeb.

Rigndi Bloodi i Frankarijke.

Olafur Noregs Koongur oskadi Skatta af Islandi. Vita Ol. S.

1024. Conrád Annar Keisari i Þijdskalandi. Wippo.

Basilius Annar i Miklagardi deidi er hann hafdi rikt meir enn i 50 ar. Cedr.

Constantinus hanns brooder Keisari 3 ar.

§. 26.

1027. Johannes *XX.* Pavi i Room cooroonadi Conrád Keisara. Þa var honum samtijda i Room Knútur Koongur hiñ rijke, er riedi fyrer Danmørk, Noreg og Einglandi, i þeirri ferd trwlofadi hann Gunnhillde dotter sina Henric Keisara syne, hwn lifde 2 ar efter þad hwn gifteft og do barnlavs. Sigon.

1030. Romanus og Zóe Keisarar i Miklagarde. Cedr.

Kálfur Arnason og adrir Nordmenn felldu fra Rijki i Nore- Vita Ol. S.

Ao. C. | | Auctores.
--- | --- | ---

i Norege Olaf hinn H: ad rædum Knúts Koongs i Einglandi, sem þa vard og Koongur i Norege.

Knútur ríki setti sídann Lavnson sinn Svein Alfifuson til Kóngs í Noreg, enn Nordmenn ráku hann burt; Knútur Kóngur stiftadi fyrstur Múka Clavstur í Danmörk, hann liet og fyrstur mynta þar Peninga.

1034. Nordmonnum leidist sw Danska Rijkisstioorn, og kalla inn aftur til Koongs Magnús son Olafs h. þessi Koonur liet samanntaka þa Logbook er kallast Grægaas. Vitæ M. et Ol. S.

1035. Michael Paphlago og Zóe Miklagards Keisarar. Cedr.

1036. Do Knútur Koongur rijki, eñ Hördaknútur vard Koongur yfer Danmork. V. Can. M.

1039. Andadist Conrád Keisari, Henric Svarti Keisari i hañs stad i Þijdskalandi. Spangb.

1042. Magnús Koongur Goodi eignadist Danmork, enn Játvardur H. vard Koongur i Einglandi.

1043. Michael Calophates og Zóe Keisarar i Miklagarde, og sijdann Constantinus Monomachus Cedr.

1046. Haralldur Sigurdarson kom fra Miklagarde, og vard Koongur i Norege, med Magnúse Gooda. Snoro Stu.

1047. Sveirn Ulfsson og Astridar Systur Knúts Koongs rijka, vard Koongur i Danmork; Magnús Goodi do. Holberg.

1056. Þa var stiftadur Biskupsstooll i Skalholte a Islande. V. Ep. Isl. Fyrsti Biskup þar Isleifur Gissursson.
Fæddur Sæmundur hinn Froodi. Schedæ.

1056. Michael *VI.* og Theodora Keisarar i Miklagarde. Chron. Carionis.
Andadist Henric Keisari, enn son hanns Henric *IV.* took Keisaradæmid. Spangenb.

1059. Niculaus Annar Paavi, wtgaf firstur þa skickun ad Cardinalarner skilldu wtvelia Paava, enn ei Keisarenn. Plat.
Isacius Comnenus Keisari i Miklagarde. idem.

1061. Philippus Koongur i Fracklande 41. aar. Þa Ludvic Cedr. Pickve, hanns son 28 aar. Þa Ludvic yngri 43 Frossardus. Philippus Augustus 43 aar. Ludvic *VIII.* 4 aar, og Chythræus. Ludvic *IX.* edur hiñ Helgi, fra hverium aller Fracka Koongar eru ættader, inn til vorra tijma.

Ao. Chr. — Auctores.

Constantinus Dúcas Keisari i Miklagarde. Cedr.
1065. Sveirn Koongur Ulfsson stiftar 2 Biskupsdæmi til Lund, og Dalby i Scaaney, og onnur tvo i Jullande. Ælnoth.
1066. Vilhiálmur Bastardur Rúdu Jall, inntook Eingland, efter Edvardi Confessoris davda, enn felldi fraa landi Sveirn Gudinason, sem 19 døgum aadur hafde yferunned og fellt Haralld Sigurdarson vid Joorvijk. Þaa tooku Koongdoom i Norege Synir hanns Olafur Kyrre og Magnús. Helmol. V. Reg. Nor. Saxo.
1068. Fæddur sa Islendske Frædimeistari Are Fróde. Schedæ.
1070. Romanus Diogenes Keisari i Miklagarde. Cedr.
1073. Hildebrandur er sig nefndi Gregorium *VII.* vard Paavi i Room, hann var eirn argur skaalkur, sem med allrahanda vielum og odaadum, golldrum, mordi og Gudleise wtbreiddi meir enn nockur annar Paavanna valld i Room, og ebldi Sathans Rijke. Plat.
1074. Sveirn Ulfsson Koongur i Danmork deide.

§. 27.

1075. Michael Dúcas Keisari i Constantinopel, og þaa strax Constantinus Dúcas hinn *XIII.* Cedr.
1075. Haralldur son Sveirns Ulfssonar Koongur i Danmørk. V. Sv. Estr.

Hilldebrandur Pávi var sá fyrsti sem bannfærdi Þýdskalands Keisara; Fyrirbavd Geistligum ad giftast, og margar fleiri skammer giørdi hann. Plat. Spang.

1077. Gregorius Paavi, wtvaldi Rúdolph af Svaben til Keisara, hvaraf ordsøkudust iñbirdis strijd i Þijdskalandi. Ursp.
1080. Alexius Comnenus Miklagards Keisari.
Knútur Sveirnsson took Koongdoom i Danmork. Saxo.
1082 Keisari Henricus assette Hilldebrand, enn sette aftur til Paava Clemens Þridia, og sijdann Victor. Plat.
1086. Knútur Dana Koongur i helsleigenn, i S. Albani Kirkiu i Odinsey, en Olafur brooder hañs vard Koongur. Æln. Saxo.
1088. Urbanus *II.* Paavi i Room, þessi fetadi allann feril Hilldebrands; hann bannfærdi bædi Keisaran og Paava Clemens siñ mootpart, sem bañfærdi aftur Urbanum. Avent. Platina. Sigeber.

Þessi Pávi iñsetti Marintider og Paternoster bønd, med ødrum Villulærdómi. Baron.

Ao. Chr. Auctores.

1090. Biriudust Leidangursferder til Jerusalem, hiñ hellsti Forsijnge var Godofredus af Bullion, Hertuge, samt Baldvin og Evstakius brædur hanns. Hugon Mikli brooder Philippi Fracka Koongs. Rodbert Hertuge, brooder Vilhiálms Einglands Koongs. Rodbert Greife af Flanderen, og enn fleiri. Þeir hofdu 600000 Footgavnguliðs, 100000 Rijddara. Fucherius. Chythræus. Gvilhelmus. Blondud.

Erindid til Jórsala og ordsøk þeß stóra Leidángurs hiedann af Nordurlondum, var sú ad seint á þeirri elleftu old, feingu marger Kóngar og Fürstar hier i Evropa stóra lyst til ad ná aftur frá Saracenum bædi Jerusalem, Gidingalandi og Syria med kríng uñ liggiandi Rikium; Enn Páfarner i Róm predikudu þeim avllum stór aflát og mikla Syndaqvittun sem þessa ferd uppá sig tækiu, enn hiner áttu ad leisa sig út med peníngum; skilldu þeir sem fóru teikna sig med ravdum Krossi á hægri Oxlinni útann á Klædinn, enn hinar hellstu þessar Leidángurs ferder vóru eftersylgiande:

1.) Ár 1090. hverra Forsíngie var Godofredus Hertuge af Bullion.

2.) 1101. Þá Baldvin var Kóngur ad Jórsølum, þad fólk dó flest allt af svikum Alexii Miklagards Keisara.

3.) 1140. Conrád Keisari og Lodvík Frackakóngur fóru þángad eñ töpudu ollu sínu fólki, fyrer svikafull rád Emanuelis Grickia Keisara.

4.) Keisari Fridrik 1. Philippus Fracka Kóngur og Rigard Kóngur i Einglandi fóru þángad 1187. eina Leidángurs fór, i henne drucknadi Keisarinn.

5.) 1191. Sendi H nrik Keisari þángad 60000 mañs, med þeirra Hershøfdíngium, þesser ad sonu yferuñu Saracena eñ tvístrudust þó søkum missklídar og ósamlindis Høfdíngianna.

6.) 1217. Ad forlægi Páva Inocentii Pridia, var ein þeßslags fór biriud, enn þad besta mannval af því fólki dó avmliga, hitt kom jafn nært aftur.

7.) 1228. Heitstreingdi Keisari Fridrik Annar ad fara þángad, enn missklid milli hanns og Pávans hindradi þad.

8.) 1248. Fór Lodvík Fracklands Kóngur til Gidíngaland, hanns strídss

Año Christi. Auctores.

striðsfólk dó mest allt af Pest. Einn fiölldi af úngum dreng-ium lagdu þá enn á stad, þeir tvístrudust marger dóu og marg-er vóru herleidder.

9) Pávi Gregorius 9de. villdi med miklum framdrætti yfertala Nordurálfunnar Kónga til ad fara þángad enn þad vard ei framgeingt. Þ ssi hin sídasta var predikud hier á Islande af Arna Biskupi Þorláksyne í Skálholte og Jørunde á Hólum Anno 1275. og so oftar, og sviku Biskupar út hier í Lande, med því móti marga Peninga sem þeir nefndu Pávatiund og S. Peturs Pening. Enn ecki hefe eg lesed ad neirn hier í Landinu, Krossast hafi til Jórsalaferdar.

1093. Deidi Olafur Kyrri Noregs Koongur, Magnús Ber-beinn og Hákon Fodurbrooder hanns tooku Koongdom. Stúrl.

1094. Vigslódi innleiddur fyrir Løg aa Islande.

1095. Eyrikur Eigóde Koongur i Danmork. Elnoth.

1096. Samsett Tijundar Statuta Gissurar Biskups aa Islande.

1098. Inntekinn Antiochia af þeim Christnu og deiddar meir enn 100000 af Saracenis. Tyrius L. 4. 5. 6.

1099. Jerusalem inntekenn af þeim Christnu þann 15. Julii, þar var þaa so miked bloodbad ad lijkamer davdra manna flutu i bloodi. Þaa hafdi Jerusalem verid i valldi Tyr-kianna 460 aar, 1ste Koongur þar var Godofredus 1. aar, þaa Balduinus brooder hanns 18 aar Pascalis Paavi i Room, þessi bannfærdi og so Keisarann, og var lijkur sijnum formonnum. Rob. M. Cario. in Gest. P. F. Helm. Plat.

Biriadist sw Ottomanniska Rijkisstioorn hiaa Tyrkium.

Enn Chronicon Carionis setur hana vid Annum 1300

1103. Magnús Berbeinn Noregs Koongur fiell aa Irlande. Syner hanns urdu Koongar i Norege nl. Olafur and-adist 1116. Eisteinn do 1122. Sigurdur Jórsalafari do 1130. Efi Nor.K. Sn. Stúrl.

Settur Erkibiskups-stooll til Lund i Skaaney, aadur vooru Biskupar vijgder til Bremen. Elnot.

1106. Andadist Henricus Keisari, efter eina mædusama og langa þrætu mooti Hofmood Paavanna, og þeirra yfergangi i 50 aar; hann var i banne þaa hann do, og var þvij ei grafenn regluliga fyrenn efter 5 aar, þaa voru bein hanns leist wr þvij. Ursperg. Avent.

Ao. Chr. Auctores.

Vijgdist Jón Ögmundsson til Bisk. a Holnm i Isl. Spang.

1107. Nicolaus Sveinsson Koongur i Danmork. AEln.

1107. Henricus Fimti Keisari i Þijdskalandi. Chyt.

1114. Um þessa tijma finst, ad Islendijngar hafi first biriad ad samansetia Skrif og Frædibækur, nockrum arum fyrr eñ Daner og Nordmenn.

1120. A þeirri samkomu sem hallden var i Slesvijk, var þeim Geistligu i Danmork fyrerboded Hioonaband og þeir sem gifter vooru hlutu ad lata sijnar Konur fra sier. Stiftad Þijngeyrar Clavstur af Jóne Biskupi Ögmundssyne. §. 28. AElnoth.

1123. Innleiddur Lijksavngs-Eirir Presta.

1125. Lotharius fra Saxen vard Keis. i Þijdskalandi. J. Comnenus vard Keis. i Miklagardi efter fodr sin sem do 1117. Viterbiens.

1126. Portugal vard eitt Rijki utaf fyrir sig, firste Koongur þar hiet Alphonsus.

1127. Loth. Keis. tilsetti 1str. Doctores og Magistros i Haskolunum. Otto Fris.

1128. Deidi Johannes kalladur *a Temporibus* 361 ara gamall, hafdi þienad Carolo M. i strijde. Naucl. Cromerus.

1129. Rögnvalldur Knaphöfde Koongur i Svijþiood.

1130. Magnús Blindi Koongur i Noreg.

1131. Knútur Hertogi hiñ H. sleigeñ ihel af Magnúse syni Nicolai Dana Koongs þañ 7: Jan. eñ Eyrikur Emund var kiörenn til Koongs. Helm. Saxo.

1135. Slag vid Footvijk i Skaney, millum Kgs. Nicolai og Eyriks i Danmork, þar fiellu 5. Biskupar og 600 Prestar. Histo. Knitlings.

Hiñ merkilegi Frædimadur og Sagnaskrifari á Islandi Sæmundur Prestur Frodi andadist 1133. 87 ára gamall. Hañ hefr skrifad þá savgu Niálu. Liódaeddu, sem meinast ad mestuleite innterciderud. Odda Añál. Sólarlióð. Hávamál. Noregs Kónga tal og eñ fleira. A þessu ári liet Haralldur Gille blinda og giellda Magnús Kóng bróourson sin, og setti hann í Klavstur enn tók siálfur Kóngdóm. Resen.

1137. Eyrik Emund Dana Koongur drepiñ af Svartaplóg, Eyrikur Lamb vard Koongur i hañs stad. Til Oldisleb i Furstadæminu Thuringen, fiell a þessu ari ur heidu lofti ein steiñ so stor sem fullkomid mañshofud, og var hañ sijdañ lengi geimdur i þeim stad til sijnis. Holb. Histo. Spangenb.

Period-

Auctores.

# Periodus IX.

## Fra þvij *Conrad III.* took Rijki, til þeß *Valdemar III.* vard Koongur i Danmörk; innehelldur *CXCVI.* Ar.

Ao. C.

1138. Conrád *III.* vard Keisari i Þijdskalandi.
1140. Sörkver Koongur i Sviþiood.
1142. Manúel Comnenus Miklagards Keisari. Chron.
Lybeck og Nurnberg þær nafnfrægu borger uppbiggdar, Spang.
it. Ulma og Hartzborg, af Conrád Keisara. Chyth.
1146. Conrád Keisari og Ludvik Fracka Koongur fooru Leidanngursfor i Gidijngaland, eñ wtrettu ekkert sokum svika Keisara Manúelis, sem liet blanda Kalke i Miol þeirra hvaraf marger menn doou. Nicetas. Tyrius.
1147. Sveirn son Eyriks Emund og Knútur Magnússon Koongar i Danmork. AElnot.
1150. Eyrikur hinn H: Koongur i Sviþiood, hann setti firstur Erkibiskups stool ad Uppsavlum. J. Gothus.
1152. Deide Conrád *III.* Keisari, Fridricus Barbarossa kom þa aftur i hanns stad. Ursp.
Vijgdur firsti Biskup til Grænlands, til Lund Eyrikur ad nafni. Ann.

Are Fróði Islendingur andadist 1148. og 1155 var stiftad Múkaþverár Clavstur.

1155. Hadrianus var Pawi i Rom og coronadi Fridric Keisara. O. Frising.
1157. Valdemar *I.* vard Koongur i Danmork efter Sveirn Eyriksson, a þessu ari var drepiñ i Norege Eisteirn broder Sigurdar Munns, eñ Inge vard Koongur. Jón Byrgeirsson vard firsti Erkibiskup i Nidarose. Holberg. Saxo. Stúrlaß.

§. 29.

1160. Keisariñ wtvallde Victor til Pawa, eñ Alexander var af þeim Fronsku wtvalenn, reis þar af mikill ofridur, 4 Radev: L. 2. C. 64.

| Ao. C. | | Auctores. |
|---|---|---|
| | ærum seirna deidi Victor, var þa wtvaleñ Pascalis Þridie, og Calixtus. | Hist. G. |
| 1161. | Fiell Inge Noregs Koongur, Hácon Herdabr. took þa aftur Koongdoom. | Stúrlas. |
| 1162. | Carolus Siounde med þvij nafni Svija Koongur. Magnús son Erlings Skacka Koongur i Norege. | |
| 1163. | Valldemar Dana Koongur wtgaf þavg Skaanstu Log. | Holb. |
| 1168. | Knútur hinn H. Eyriksson Koongur i Svijþiood. Valdemar Koongur for Leidangur til Vindlands, iñtook borgena Arcona, og eidilagdi þañ Afgud Svantevit, christnadi landed, og lagdi þad til Roskilld Biskupsdæmis. Uñ þessa tijma liet Absalon Biskup byggia Axelhws, þar sem nw er Kaupenhafnar Slot, ædur hiet þad Stegluborg. Stiftad Þickvabæar Clavstur af Klange Biskupi. | Helmold. Saxo. |
| 1171. | Valdemar Koongur wtgaf þavg Sællendsku Log. | Holb. |
| 1177. | Sveirn Son Signrdar Munns tekinn til Koongs i Norege af Birkebeinum. | Vita Sv. |
| 1178. | Fæddist sa mikli Sagnaskrifari Snorre Stúrlason. | |
| 1179. | Þrestum a Islande fyrerboded Hioonaband. | |
| 1180. | Andronicus Miklagards Keisari 2 ar. | Nicetas. |
| 1181. | Knútur Valdemarsson Koongur i Danmork. I tíd þ ssara Kónga ritadi Saxo Gramat.cus þá Donsku Kónga Historiu á Látínu. | Saxo. |
| 1182. | Isaacius Angelus Miklagards Keisari 10 ar. | Nicetas. |
| 1184. | Fiell Magnús Erlingsson Noregs Koongur. Sett Clavstur ad Helgafelle, tveim arum seirna var sett Clavstur ad Kirkiubæ af Þorláke H. | V. Sverr. |
| 1190. | Deide Keisareñ Fridericus Barbarossa eñ Henricus *VI.* vard Keisare. Meinast ad Knútur Dana Koongur hafe stiftad Riddara-Orduna af Elephanten. | Spang. |
| 1192. | Alexius Comnenus Miklagards Keisari. Sorkver Þridie Koongur i Sverrig. | Tyrius. |
| 1193. | Deide sa Egiptski Soldan Saladinus sem hafdi yferuñed morg lond i Avsturalfunne. | |
| 1195. | Aben Joseph Keisari af Marocco fiell iñi Spaniam med 600000. | Zachar. |

Ao. Chr. Auctores.

600000. manns, yfervann Alphonsum Koong af Castilien og inntook landed.

1198. Philippus *II.* og Otto *IV.* Keisarar i Þijdskalande. Ursp.

1202. Deidi Knútur *VI* Dana Koongur Valdemar *II.* vard Koongur. Deide Sveirn Koongur i Noreg Hácon son hanns vard þar Koongur i hanns stad. Holb. Histo.

1204. Andadist Hácon Sverrisf. Guttormur sonarson Sverris vard aftur Koongur 1 ær. Æfi N. Kg.

Changius Cham firsti Koongur i Tartarienu. Chyt.

§. 30.

1205. Inge Bárdarson Koongur i Norege. Alexius *III.* og Alexius Dúcas Miklagards Keisarar. Fiellu þeir Þijdsku og Frønsku Furstar inn i Griekland, inntooku hofudborgena Constantinopel, ræku fræ Rijke Alexium *V.* eñ Baldvin *I.* vard aftur Keisare. Theodorus Lascaris var þæ Griekia Keisari, og sat i borgenne Nicæa. Brooder Baldvins kom efter hann til Keisaradæmis i Constantinopel, og rijkti 13. ær. Nicetas. Tyrius. idem.

1208. Liet Otto Keisari hallda samkomu til Francfurt, vooru þar wtnefnder þeir 7. sem ræda skilldu Keisara Kiorunum i Þijdskaland nl. Biskuparner af Moguntia, Trier og Colni, Slotzgreifinn af Rhin, Hertugenn af Saxen Margreifeñ af Brandenborg, og Koongurin i Bøhmen. Sigonius.

1211. Eyrikur *X.* vard Svija Koongur.

1212. Otto Keisari var bañsettur, og affettur Keisaradæmenu, eñ Fridric *II.* sem þæ var Koongur i Siceley vard Keisari Thrith.

1225. Sæ mikli Islendski Frædimadur Snorre Stúrluson vard Logmadur æ Islande.

1216. Var Petur Miklagards Keisari; sijdañ Robert hañs son. Nicetas.

1217. Hácon Háconarson vard Koongur i Norege. V. Haq.

1229. Johannes *I.* Svija Koongur, og efter hañ Eyrikur kalladur hiñ Stame, i hanns tijd var Prestum i Svijarijke bannad ad giftast.

1223. Greifeñ af Sverin liet med svikum fænga Koong Valdemar af Danmørk, og Printzen son hanns. Hist. H. Dan.

1224. Sett Videyar Clavstur.

1227. Gregorius *IX.* Pævi i Room. Pessi

Ao. C. Auctores.

Þessi Páve var eirn vondur madur hann bannfærdi Fridrik Spang.
Keisara tvisvar, og ordsakadi mikeñ óróa í Ríkenu, safnadi her í
móti Keisaranum, lofadi sínu stríds fólki frelse úr hreinsunarelldi- Chron.
num, og eilífu lífe, ef þad berdist vel med sier, hañ gieck í Pro- Philip.
cessiu berfættur fyrer lidenu, og liet bera í kríng med sier høfud
af Postulunum Petre og Pále, sem hañ sagdi sig og sitt fólk vern- Onuph.
da skilldi; eñ hañ hafdi samt ósigur og var margt af hañs lidi Anninus.
dreped, enn hann flýdi og dó skømmu seirna.

A þessu ári kom til Róm ein Greife, sem hafde verid fangen
hiá þeim Saracenis, eñ komst burt med því móti ad hañ hafdi Chron. Thúringen.
gift sig eirnri Saraceniskre Júngfrú sem hiálpadi hønum burtu,
hañ átti adra Konu í Thúringen ádur, átti hañ so þadañ í frá
þessar bádar, samdi þeim øllum vel, sú Tyrkneska var dáfríd, eñ Dresserus.
átti eingiñ børn, þavg hvíla øll í einu begrafelse til Erfurt.

1228. Balduinus Robertsson Miklagards Keisari. Chyth.
1237. Keisari Fridrik stiftar Haskoola til Vien i Þijdskalandi.
1239. Stiftadi hañ añañ til Neapolis; liet og wtleggia marga Auc-
tores af Grisku og Arabisku, so sem Aristotelem, Ga- Aven.
lenum, Avicenna, og marga adra. Chron. Car.
1240. Valdemar *II.* Dana Koongur, wtgaf Jutsku Løg.
1241. Gissur Þordvalldsson drap Snorra Stúrluson i Reik-
hollte a Islande. Stúrl. Hist.

Snorre hefur margar nytsamligar bækur efter sig láted sem
Eddu, Chron. Norv. Háttalikel, og margt fleira.

1242. Deide Valdemar Dana Koongur, Eyrikur hanns son Histo. Holb.
aftur Koongur i Danmørk.

§. 31.

1243. Innocentius Fioorde Paavi i Room.
1247. Vilhiálmur Cardinal aftok i Norege Jaarnburd og Ketiltek Hác. S.
1250. Deidi Fridrik Keisari, Conrád Fioordi kom aftur i hvñs Spang.
stad. Hertogi Abel i Danmørk liet myrda Eyrik Histo. Holb.
Koong broodur sinn, og vard aftur Koongur.
1251. Valdemar Birgeirsson Koongur i Sviþiood.
1252. Christophor *I.* son Valdemars vard Dana Koongur. Histo. Holb.

hann

Ao. Chr. Auctores.

hañ ꜳtti deilur miklar vid Jacob Erlendsſ. Biſkup.
1254. Vilhiálmur Greifenn af Hollandi wtvalinn til Keiſara. Pariſeus.
1256. Cublai edur Cobilas Cham fader hins mikla Tamerlans took Koongdoom i Tartaria, hann var hinn fim̃te frꜳ Changio Chan þeim firſta Koongi i þvij Rijke.
1257. Utvaleñ til Keiſara Richard af Einglande. Og ſijdann Alphonſus af Spanien, hañ liet firſtur wtleggia Bibliuna ꜳ Sponſku. Þo þeſſir væri wtvallder talldiſt ei þeirra ſtioorn mikelsverd, ſo nw er reiknad 17 ꜳra milli rijke i Þijdſkalandi, og gieck þar miøg illa og ofridliga til ꜳ þeim tijma, þeſſi Alphonſus var eirn hꜳlærdur Herra. Chron. Car. Theat. H. Plat.
1258. Giſſur Þorvalldsſon fieck Jalls nafn yfer Iſlande. St. H.
1259. Chriſtophor Dana Koongur ſvikeñ ꜳ Eitri i Sacramentenu af Arnfaſte Biſkupi i Arhws, vard þꜳ Son hanns Eyrikur Glipping Koongur. Hol. H.
1260. Michael Palæologus iñtekur aptur Miklagard, og rak burt þꜳ Evropæiſku, ſem þar høfdu ſtioornad i 60 ꜳr. Pariſ.
1260. Valdemar Svija Kongur liet uppbiggia ſtadeñ Stockholm. Chythr.
1261. Iſland og Grønland verda efter mikla fyrirhøfn og efterſookn Noregs Koonga, um̃ſijder undergefenn og ſkattgilld Hácone Koongi Gamla, og ſooru hønum ſkatt. Hiſt. Stúrl.
1262. Deidi Hácon Noregs Koongur i Orkejum, eñ Magnús Lagabæter kom i háñs ſtad, til Rijkes i Norege. Hiſt. Hag.
1263. Sw Løgbook ſem kallaſt Grꜳgꜳs var afteken̄ i Iſlande. Liet Magnús Koongur i Norege ꜳ þeſſum ꜳrum miked forbetra þavg Norſku Løg. Hiſt. M. L.
1272. Var Chriſteñ-Rettur Arna Biſkups iñleiddur i Iſlande.
1273. Rúdolphus af Habsburg var wtvaleñ til Keiſara i Þijdſkalande, eirn ꜳgiætur Herra, og hiñ firſte af þvij Furſtalega hwſe af Auſtur-Rijke, þeß Stiftari og Forfader. Æn. Sylv. Avent. Urſp.
1274. Samſett Hirdſkrꜳ i Norege med ødrum fleiri Løgbookum. Marinus.
1277. Magnús Ladelás vard Koongur i Svijarijke.

§. 32.

1278. I Þijdſkalandi fæddi ein Stwlka Barn 8 vetra gømul. A þeſſu ꜳri voru heingder i Einglande 248 Jwdar firir ſvik er þeir høfdu giort i Gullmyntenne. Ann. Sv.

| Ao. C. | | Auctores. |
|---|---|---|
| 1280. | Andadist Magnús Koong Lagabæter, eñ Eyrikur kalladur Prestahatari tok Kongdom i Norege. Var løgtekenn a Islande Jonsbok, so kollud efter Jóne Logmañe, er hana flutti firstur til Laudsins. | Chron. Nor. |
| 1282. | Siceley kom under Valld þeß Spanska Koongs, Peturs af Arragonia, efter þad mikla blodbad sem iñbiggiararner giørdu þar, er þeir dræpu alla þa Frønsku sem fundust a Eyuñe, a Paaskadagsqvøllded, hvert almenneliga er kallad Sikileyar qvølld. | Marinus. Cluv. P. Æmyl. |
| | I Siceley vóru myrdtar á 2 Kluckutimum 8000 manns af þeim Frønsku. | Aventinus. |
| 1282. | Andronicus Palæologus Miklagards Keisari, asamt brædrum sijnum Michael *IX.* og Constantino *XIV.* | Chythr. Plat. |
| 1286. | Eyrikur Dana Koongur var drepeñ til Finderup i Jullandi, hanns son Eyrikur Menved vard aftur Koongur. | Chron. Dan. |
| | Um þessa tima lifdi í Þýdskalandi ein Qveñpersóna meir eñ í 30 ár firir utann mat og drick. | Naucl. Theat. H. |
| 1291. | Birger Magnússon Koongur i Svijþijod. Andadist Rúdolphus Keisari i Þijdskalandi. | Chron. Car. Spang. |
| 1292. | Adolphus *I.* Keisare i Þijdskalande. | Peuc. |
| 1293. | Premislaus vard firste Koongur i Polen. | Crom. |
| 1298. | Fiell Adolph Keisari i strijde, eñ Albertus Son Rudolphs Keisara kom i hanns stad. | Trith. Spang. |
| 1299. | Do Eyrikur Koongur Prestahatare i Norege, Hácon brooder hanns vard þar aftur Koongur. | |
| 1300. | Var halldid eitt Jubilæar til Room af Pava Bonifacio sookti þangad otøluligur fiølldе foolks til ad fa Syndanna fyrirgiefnijng og Paavaliga blessan. | Blondus. Plat. |
| | Øllum þeim sem fóru til Róm á þessu Júbilári gaf Páviñ án alls afdrátt, fiisun úr hreinsunar Elldenum, og skipadi Guds Einglum ad flitia sáler þeirra i Paradis, strax sem þeir dæi, og þeim sem vóru lángt ad gaf hañ leifi til, ad kjósa til Paradisar 2 edr 3 adra. | |
| 1302. | Bonifacius Paavi bannfærdi Philippum Fracka Koong. Johann Goja eirn Italienskur madur uppfañ Compaas | Naucl. |

ad

